# Andlegt Barnagull,

eða

# Lítið Safn

af

bænum, versum og spakmælum úr heilagri ritningu, góðum börnum til yndis og uppbyggingar í guðrækninni.



Akureyri 1860

Prentað í prentsmiðju Norður - og Austurumdæmisins, hjá H. Helgasyni.

# I. Bænir.

---

## 1. Bæn.

Guðs blessan sje yfir mjer; blessan guðs sje mjer í brjósti og hjarta. Sje jeg svo hulinn með heilögum anda, að mjer kunni aldrei neitt vont að granda. Það sje og veri til eilífðar, amen.

## 2. Bæn.

Drottinn minn Jesús, kenndu mjer að lifa eptir þínum vilja; því þú ert minn guð. Láttu þinn góða anda leiða mig á rjettum vegi til eilífs lífs og sáluhjálparinnar, amen.

## 3. Bæn.

Guð himneskur faðir varðveiti mig. Jes-

ús guðs sonur blessi mig, friði og frelsi mig. Heilagur andi helgi, huggi og upplýsi mig. Engill drottins míns geymi mig. Náð og miskunn guðs leiði mig. Orðið himneska herrans míns fræði mig; mildi skaparans míns fæði mig; rjettlæti drottins míns gæði mig, svo enginn illur andi hræði mig, amen.

## 4. Bæn.

Minn guð og drottinn, tak frá mjer það sem mjer er skaðlegt, gef mjer aptur það sem mjer er nytsamlegt. Gef þú mjer sanna guðrækni, sanna iðrun, hjartanlegt lítillæti og góða samvizku. Gef mjer það hjarta, sem þig óttist, það sinni og hugskot, sem þig elski, þá vitsmuni, sem þig þekki, eyru sem þig heyri og augu sem þig sjái. Fyrirgef þú mjer allar mínar syndir, styrk

mig í trúnni, voninni og kærleikanum. Vertu mín huggun í hörmunginni, og gef mjer um síðir gleðilegan viðskilnað og að endalokunum eilíft líf fyrir vorn drottinn Jesúm Krist, amen.

---

# II. Vers.

---

## 1. Vers.

Lag: Ó, guð vor faðir, sem í himnaríki ert.

Sigurvegarinn, sæti Jesú sálu mín Endurnæri í sjerhvert sinn, Svo að hún lifa megi. Leiði mig sjálfur lifandi guð, þá lífið dvín Úr sorg í gleði, græðari minn Greið mjer friðarins vegi Inn í þitt ríki, Kristur klár, Kongur dýrðar ljómandi, Svo að jeg kunni herra hár, Heilögum samfagnandi, Syngja þjer lof um eilíf ár, Ó Jesú hátt sitjandi.

## 2. Vers.

Lag: Um dauðann gef þú drottinn mjer.

Ó Jesú þú ert auðlegð mín, Annarar jeg ei leita. Gef mjer að eign og arfleið þín Eg megi líka heita Og prísa í lífi þessu þig, Þá muntu síðar gleðja mig Í hóp þinna helgra sveita.

## 3. Vers.

Lag: Á guð jeg einan.

Minn Jesú mæti, Mjúklega bið jeg þig: Ríkt guðs rjettlæti Reiknist ei við mig. Eg nær á að fara Upp fyrir dóminn þinn, Frí mig forsvara Frelsarinn góði minn, Ei mjer út snara, Inn leið í himininn.

## 4. Vers.

Lag: Jesús Kristur að Jórdan kom.

Lof sje þjer faðir fyr og síð Fyrir þinn soninn kæra, Og þjer Jesú, sem leystir

lýð, lof sje þjer dýrð og æra; Svo helgum anda sama veg Sanna vegsemd skal gjalda. Þú eining, þrenning ódauðleg, Unn mjer þinn prís margfalda Hjer og um aldir alda.

## 5. Vers.

Lag: Konung Davíð sem kenndi.

Allt hvað lífs anda hrærir Og heiti nokkurt ber, Og heilög hönd þín nærir, Um heiminn hvar sem er, Líka um lopt hvað fer, Sjer hvað með sínum hljómi sæmd, æru, lofgjörð rómi Og dýrð, minn drottinn, þjer.

## 6. Vers.

Með sama lag.

Vald, heiður, vegsemd, æra Veitt sje guð faðir þjer, Samt þínum syni ástkæra,

Sem að oss frelsi ljer, Æðst lof sem aldrei þver; Heilögum allt eins anda Æðsta prís skulum vanda Allir af alhug vjer.

## 7. Vers.

Lag: Hvar mundi vera hjartað mitt.

Í lífs eilífs von lifum vjer Líðandi í heiminum; Í lífs eilífs von fram oss fer Fetandi' á guðs vegum; Í lífs eilífs von brátt að ber Blómgandi tíðunum; Í lífs eilífs von líf ef þver, Ljómandi upp rísum.

## 8. Vers.

Með sama lag.

Eg snýð lifandi lausnarinn, Lífs von minni heim frá; Eg flý þurfandi' í faðminn þinn, Friði svo kynni ná; Eg bý hjarandi ókvíðinn Undir þinni forsjá; Eg kný deyjandi drottinn minn Dyr náðarinnar á.

### 9. Vers.

Með sama lag.

Hafið, lopt, jörð og himnarner Heiðri þig Jesú minn; Allur prísi þig engla her, Sem er þjer handgenginn; Magni friðkeyptu mennirner Með þeim lofstírinn þinn; Mikli þig sála mín, í þjer Minn gleðjist lífsandinn.

### 10. Vers.

Lag: Guðs son kallar komið til mín.

Herra þjer fel jeg hjarta mitt, Við hrelling synda gjör það kvitt, Efl með mjer iðrun sanna. Þinn andi byggi í brjósti mín, Brennandi trúna gef til þín, En ást til allra manna.

### 11. Vers.

Lag: Kær Jesú Kristi.

Ó, son guðs sæti, Sálu lækna mín, Gef

að hún gæti Græðslu notið þín; Óvini alla Eg bið rek mjer frá; Heyr hátt jeg kalla, Hjálp virztu mjer ljá. Mola þinnar miskunnar, Minni sál til hressingar, Rjett þú brunnur blessunar; Björg fæ nóga þá.

## 12. Vers.

Með sama lag.

Ó, Jesú, Eg mig Í undum þínum fel. Sú vistin veglig Veikir sorgar el. Þínum kyrtli klæddur Kann jeg prýði fá, Og blóði yfir blæddur Blessun allri ná. Þjer sje æra, heiður hár, Hvar sem bærist land og sjár, Vegsemd skær um eilíf ár, Amen Hósanna.

## 13. Vers.

Lag: Jesús Kristur á krossi var.

Allan mig fel jeg á þitt vald, Ó, minn Jesú, mitt lausnargjald, Jesú minn blíði

bróðir, Elskan þín sje mitt yndishald, Ó, Jesú, Jesú góði.

### 14. Vers.

Með sama lag.

Friðar mig tak í faðminn þinn, Friðarhöfðinginn, lausnari minn, Jesú minn blíði bróðir. Leið oss í lífið eilíft inn, Ó Jesú, Jesú góði.

### 15. Vers.

Lag: Jesús Kristur að Jórdan kom.

Lof sje guði, er ljet mig sjá Lífsferil orða sinna, Lof Jesú, sem mig leysti frá Lífsstraffi synda minna, Lof helgum anda, er ljet hjá mjer Líf andlegt kvikna, hrærast, Lof þrenningunni, er svo um sjer, Sama líf kunni nærast, Til líf eilífs fram færast.

### 16. Vers.

Lag: Heiðrum vjer guð af hug og sál.

Sjá, jeg andvarpa upp til þín, Eyru

miskunnar hneig til mín; Græði mín synda gjörvöll sár, Góði Jesú, þín líknin klár. Ásjónu þinni að mjer snú, Elskulegasti minn Jesú; Ljóss eilífs til mig leið í trú.

## 17. Vers.

Lag: Á guð jeg einan.

Elskunnar örmum Eg vef minn Jesú, þig. Kyss kossi vörmum Þíns kærleiks aptur mig. Veit mjer svo vera, Sem villtu drottinn minn, Þá þjáning bera, Sem þjer er geðfelldin, Og allt það gera, Er prís víðfrægi þinn.

## 18. Vers.

Lag: Ó faðir minn, jeg þrællinn þinn.

Lát engla þín, Önd sæla mín, Er jeg dey, til þín flytja; Sá maktarher, Sem meður þjer Mun enn í skýjum vitja, Mig upp vakinn, Ó Jesú minn, Á hægra veg

þjer leiði; Mjer þín ásjá Á móti þá Miskunnarfaðminn breiði.

## 19. Vers.

Lag: Eilíft lífið er æskilegt.

Með klökku hjarta heyrðu nú Og hugleið kristinn mann, Hvað furðu dýr var fórnin sú, er frið þjer kaupa vann. Harla vel færðu hjer af sjeð, Hvað hætt er misgjörð þín, Hvað stórum guð þar móðgast með, Hvað megn er straffsins pín. Allan því hata synda sið, Og svo í trú þig hugga við, Að sonur guðs með sinni pín Af sekt þig hafi leyst, Og bæti fyrir bresti þín Betur en sjálfur veizt. Þar fyrir honum þakkir sýn, og þessari kvittun treyst.

## 20. Vers.

Með sama lag.

Heiður og vegsemd háleit sje, Minn herra Jesú, þjer, Innileg skal þjer elska í

tje Um eilífð bæði' og hjer, Fyrir þá heitu hjartans ást, Er hafðir þú til mín, Þegar mig fallinn sekan sást Í synd og þyngsla pín, Að eymdir mínar á þig tókst, Og með synd minni písl þjer jókst, Föðurnum hlýðinn ljezt þitt líf, Lægðir óvina mátt, Mýktir svo allt mitt eymda kíf, Eilífa bjóst mjer sátt. Dýrkeyptum mjer nú drottinn hlíf Og dragast ei frá þjer látt.

## 21. Vers.

Lag: Guðs vors nú gæðsku prísum.

Nafn þitt helgist ó herra. Hjá oss þitt ríki sje, Veit oss þinn vilja að gjöra, Verð hvers dags lát í tje, Fyrirgef sekt og synd; Freistni ei lát oss fella, En frelsa' oss frá hinu illa. Þess biður þín barnkind.

---

# III. Spakmæli Jesú Síraks.

---

1. Hvað sem þú tekur þjer fyrir hendur, þá treystu guði af öllu hjarta; því það er guðs boð.

2. Allt kemur frá guði, hamingja og óhamingja, fátækt og ríkdómur, líf og dauði.

3. Vitur sonur gleður föður sinn, en fávís sonur er raun móður sinnar.

4. Ekkert er betra fyrir manninn, en gjöra verk sitt með gleði; því það er hans hlutfall. Vinna veitir nægtir, en orðin tóm leiða af sjer skort.

5. Fátækur maður, sem fram gengur í hreinskilni, er betri en ríkur, sem hefur vondar varir.

6. Gott mannorð er meira vert en mikil auðæfi, vinsæld betri en silfur og gull.

7. Trúr vinur er örugg vörn; hver sem hann finnur, sá hefur fundið mikinn fjesjóð.

8. Auður og styrkleiki hefja hugann, en ótti drottins meir en hvorttveggja.

9, Prófa sál þína í þínu lífi; sjá hvað henni er skaðlegt og leyf henni það ekki

10. Hugsa til endans í öllu, sem þú gjörir, þá muntu aldrei illa breyta.

11. Allar gáfur og rangfengið fje hverfur, en dánumennska varir eilíflega.

12. Þess meiri þú ert, þess meir skaltu þig auðmýkja; svo muntu finna náð hjá drottni.

13. Drottins blessun er umbun þeirra guðrækni, og á stuttum tíma lætur hann sína blessun blómgast.

14. Betra er að hafa lítinn skilning og vera guðhræddur, heldur en mikinn skilning og yfirtroða lögmálið.

15. Elska þú drottinn svo lengi sem þú lifir og ákalla hann þjer til velferðar.

16. Í eldi er gullið prófað, og þeir menn, sem guði eru þóknanlegir, í ofni þjáninganna.

17. Hver, sem óttast drottinn, honum mun vel vegna, og á andlátsdeginum mun hann blessaður vera.



